Andligra

# Smá-rita Safn

til

## Uppbyggingar sønnum Christindómi.

utgéfid

vegna eins evangeliskts smábóka félags, sem hófst á Nordur-Islandi árid 1815,

af


Jóni Jónssyni,

Presti til Grundar- og Mødruvalla-safnada í Eyafyrdi.


Rit hins fyrsta árs.




Prentad í Kaupmannahøfn 1816,

hjá Th. E. Rangel.

# Formáli.

Svo miklu sem sálin er líkamanum ágjætari, svo miklu naudsynligri og mikilvægari er umsorgan hennar, enn hans. En sorgi nockur fyrir sálu sinni og annara réttiliga, sorgar hann undir eins fyrir sinu og annara líkamliga besta. Þad er sá stytsti, en þar hjá hinn vissasti vegur, til ad efla stundliga luckn, ad leggja grundvell til eilífrar. Hvør er vissari adferd ad gjøra einn góðann borgara, enn ad gjøra hann gódann Christin?

En sú æra tilheyrir ad eins Jesu Trúarbrøgdum, ad þaug verka þetta hvørutveggja. Hinn sann christni er besta og farsælasta manneskja, í hvørju standi sem hann lifir. Sé hann Yfirbodari, er hann réttvís og sanngjarn; sé hann undirsáti er hann hlýdinn og aud-veipur; já yfir høfud sam-

vitſkuſullur í allra ſinna ſkyldna uppfyllíngu. Og — hvad gétur framar eſlt borgaraliga heill, enn ſvoddan þeinkíngarháttur! Elnarſta ad kappkoſta ad eſla líkamliga velferd lands og lída, en byrda lítt um hina andlign, er ad byggja, en ſkipta ſér lítid af, hvílíkur grundvøllur byggíngarinnar er. Og þetta er orſøkin, hvarfyrir heimſíns ſanna velſtand hefur ſvo litlum framførum tekid, þó menn ad undanførnu hafi lagt alla alúd á, ad utbreida medal manneſkjanna líkamligar mentir og íþróttir; því ſvo leingi ſem Trúarbrøgdin — já þang chriſtiligu Trúarbrøgd — eru vanrækt, eg vil ecki tala um forſmád, ſvo lengi byggja menn yfir ſand, alla adra atburdi til heimſíns beſta; ja ein hønd brýtur þad þá nidur, ſem ønnur byggir. Sú reynſla hefur nógliga ſýnt ſig á øllum øldum, en ecki ſídſt undanførnum.

Hvenær hafa mannligar mentir og íþróttir komiſt á hærri Trøppu, og verid med meiri alúd efldar, og æfdar og hvønær hefir þó øllu ver tilgengid í verøldunni? Hvenær hefur á mannligu kyni verid frekara ædi, í því ſtora, ad eydileggja ſig ſiálft innbyrdis? Enda hvønær hafa Jeſú Trúarbrøgd verid meir forſmád og kjænligar offókt, enn á

undanförnum tímum? Sjálf Skynsemin — vanbrúkud skynsemi — hefur hertýad sig á móti þeim og Ritníngunni, og svared þeira undirgáng. Já, og vinir jardneskrar speki, en óvinir himneskrar hafa blackad yfir sigri símum. En Gud, sem aldrei lætur af ad efla mannanna heill, þó þeir afláti, um hríd, ad efla hans dýrd, hefur nú útsendt einn nýann lífsanda frá sér, í þessi sín ádur líka sem daudu og útsmurdu vitni (Op. 6 II. 11), nefniliga Jesú Trúarbrøgd, eptir heil. Ritníngu, svo þaug eru alvarliga ad nýu á fætur risin, en óvinir þeirra standa selmtsfullir, og sjá þar uppá. Því: hvørsu margir Gudsmenn sameina nú sína kropta og stipta ymislig Félög, hér og þar i løndunum, til ad uppbyggja Jesú Ríki sem best, í mannanna sálum? Ósegjanliga gledeligt er ad lesa og heyra þær merkiligu frásaguir, er um þetta høndla. Þar eru følog, sem med miklum kostnadi gjøra út sendudur, til ad predika heidnum Þjódum veginn til lífsins; Félög, sem útbreida Ritnínguna, med allra mesta kappi og kostnadi, um alla heimsbygdina; Félög, sem med andligum hrærandi ritum, leitast vid ad vekja mannana sofandi hjørtu, þeirra sem þó Christnir kallast, til ad

athuga sinn sálarhag, og med sannri ydrun og trú ad snúa sér til hans, sem frelsad hefur heiminn med sínum dauda.

Því allír vita, þad nægir ecki, ad þeckja líf'sins veg og játa hann, en gánga hann þó ecki; edur med daudri trú ad reida sig uppá Guds nád, vegna Christs; sem flestir láta ér nægja. Þacka megum vér ad vísu Gudi, ad evangelisk Trúar brøgd hafa ecki eins opinberliga rángfærd verid. hjá oss, sem í mørgum ødrum løndum, jafnvel þó úrdeig Trúarbragda jafngildis hafi í bland ofmjøg innsmeigt ér hjá sumum; samt høfum vér, eigi sídur enn adrar þjódir, ad óttast fyrir, ad þad andliga líf, sem Trúarbrøgdin verka ega í mannanna sálum, sé hjá allt of mørgum, medal vor, nærsta dapurt, ef ei útslockid. Hálfvelgja, hyrduleysi og hræsni, eru ofinngróinn Annmarki þessarar aldar. Og jafnvel þó heil. Ritníng sé mørgum kunnig, og verdi þad, ad vonum, enn framar, þar Bibliu Félag er og svo í vændum ad stofnist hér hjá oss; fyrir utan þad, sem mikil gnægd, af þessari allraheilogustu bók, er allareidu frá því háloflíga engelska Bibliu félagi innsend til útbreidslu, vor á medal, má þó mikiliga ugga,

ad þessi dýrmætasti fésjóður verði samt, af sumum hvörjum, já mörgum, með allt of litilli alúð ræktur, eður til sannra nota sálnanni brúkaður, meðan sá banvæni samvitskudofi og svefn drottnar yfir hjörtunum. Menn vita, hvörsu það tilgengið hefur hjá mörgum áður, sem áti hafa Bibliuna. Þessvegna er það nú, bæði Orsök og augnamið þessa vors Félags — svo sem við hliðina á því eptirrækjauliga Biblíu félagi hér á landi — að dæmi annara Þjóða, að leitast við að benda folki, með uppvekjandi ritum, til að brúka, og brúka réttiliga, þann dýrmæta fésjóð heil. Ritníngar, sem Guð hefur nú sendt oss, hönum til dýrðar en oss til sáluhjálpar; svo dómur hans verði ei þe'ss þý 'gri yfir oss, sem han sendir oss meira af sínu Orði, en vér skipunst ecki. En til at útlista enn glöggligar tilgáng og nytsemi felags vors, vil eg framsetia hér litið inntak formála þess, sem stipteudur samaslags Felags, hjá hinni ensku þjóð, við útgáng næstliðinnar aldar, hafdu, fyrir þess stiptun, sín á medal, svolátandi:

„Þá Jesús var á jörðunni, gêck hann um „kríng og gjörði gott. Setur sá borið hans „lærisveins nafn, sem ecki fylgir Meistarans

„dæmi. Sá ydjusami góðfýsis andi er eitt „stakligt einkénni hins sanna Christindóms.

„Elska skaltu náúng þinn, sem sjálfann þig, „er ein forskrift, sem vor lausnari sjálfur, hefur „géfið oss, og med síuu dæmisvo voldugliga sannad „og sýndt, ad eckert utan Manneskjanna blindni „og þverúdarfulla spillíng kann því ad mótí„standa. Hvar Evangelium fær fullkomna inn„gaungu, þar setjast allir sálarinnar kraptar í „hræríngu og madur finnur hjá sér inniliga um„sorgun fyrir annara manna velferd. Umsorg„an þessi dampar þá ecki burtu í ávaxtarlausri „medaumkun, heldur býr sig út til virkiligra „athafna, og spyr: hvad er mögnligt ad gjöra „til ad minka manneskjanna ólucku, og frama „þeirra sönnu velferd og sáluhjálp? — Medal „margslags atferda, sem brúkast kunna þar „til, er þessi ein, sem vér stakliga viljum bidja „alla Jesu elskendur og lærisveina alvarliga ad „yfirvega, þar hún ætíst ad géta gjördt eina „frábæra og sig vídt verkandi nytsemi, nefni„liga: útbreidslu uppbyggiligra rita. „Margir Endurlausnarans vandlætisfullir ep„tirfylgendur — sem annars eru ættqvisi þeirri,

„medal hvörrar þeir lifa, til blessunar — hafa „þó enn nú aldrei snúid sinum þaunkum tilþessa „efnis, svo auglíosligu sem þad má þó vekja „athugasemi. Því þetta er sannarliga ein „þvilik atferd ad verka gott med, sem:

„1) Hefur mikil Líkindi til þess, ad hún „muni stipta Nytsemi. Utbreidsla sann„leikans vid predikanir gjörir án efa mikid gagn „út af fyrir sig; en skéi hún þaradauki med „Skrifum tvøfaldast gagnid vissuliga, og rér „høfum fyrir augum dæmi þeirrar heil. Rit„níngar.

„2) Þessi Atferd er ogsvo ein mikid aud„veld atferd til ad koma nockru gódu til ve„gar. Sérhvor einn hefur ecki þá gáfu, ad „séta talad vid adra, einkum ókéndar persónur, „um atridi Trúarbrágdanna. Þar ad auki „finna margar gudhrædddar manneskjur hjá ’ér „einslags fyrirvyrdu i þessu tilliti, hvörja þær „fá ecki yfirunnid. En þad er ecki torveldt at „segja til eins: Minn Vin! les þetta yfir, og „seg mér sïdan, hvad þér sÿnist þar um.

„3) Er þetta ein Kostnadar lítil At„ferd ad verka nockud gott. Skrif þaug,

„sem vér] hér meinum, eru sidvanaliga mikid „smá, og hvør sem árliga vill utleggja eina „litla summu til þessa augnamids, fær tæki- „færi á einu ári, ad vísa mørgum hundrad „sálum hjálpræðisins veg. Pad er ecki aud- „veldt ad segja, á hvørn annann hátt svo mi- „kid gott kunni ad skiptast, med litlum kost- „nadi. Par ad auki.

4) Kann þessi máti ad gjøra gott en- „gann ad styggja edur móðga. Pegar „vér viljum setia einum nágranna vorum edur „framandi manni gudlig sannindi munnliga fy- „rir sjónir, kann hann audveldt ad halda þad „einn af oss sjálf tekinn rétt á móti sér, og eitt „Svar í hyttingi verde svo beili ávøxturinn af „voru erfidi. Ef vér þar á móti géfum hønum „eitt lítid rit í høndur, þá er gjafarinn ecki sá „sem kennir hønum, heldur ein þeidja fráveran- „di persóna. Pad eru líka margar manneskjur, „sem vér ecki á neinn hátt gétum med ødrum „móti gjørdt nocka tilraun vid, ad uppvekja „edur sansæra. Máti þessi er

„5) hæfur til ad útbreida nytsemi lángtum „vídar, en nockur annar, sem einn embættis-

„laus Christinn madur kann ad bruka: Einn „æruverdur vinur, hefir um nockur ár lagt „fyrir sig atferd þessa, og vér rádleggjum ød= „rum ad breita eptir hans dæmi. Hann hefur „allt:d vid hønd mørg af svoddan andligum „smáskrifum ymisligs innihalds, og utdeilir „þeim eptir því sem hann þeck.r persónurnar „sinnis. og hátta lag, sem hann géfur þvílíkt „eitt. Hann gefur nágrønnum sínum, einkum „børnum, slíka rit íinga, og hvetur þaug til ad „lesa nockud í þeim, fyrir sínum foreldrum.

„Nær hann er í ferdalagi, þá hefur hann „ætíd þvílik rit med sér, til útlýíngar, Komi „hann í samtal vid nockurn, þá gefur hann „hønum, ad endíngu, þvílikt eitt ritkorn.

„Hvad nu þessi eini madur gjørir, kunna „og svo fleiri ad gjøra; og ef sérhvør Christinn „vildi, eptir sínum efnum, gjøra eins, hvørsu „margar sálir mættu þá ecki frelsast, sem nú „framgánga í andvaraleysi? Atferd þessi ad „gjøra gott, kann — 6) ágjætliga ad samei= „nast med ødrum atburdum, til sama Augna= „mids. Til dæmis: madur hittir einn ángur=

„bitinn syndara, er med tárum spyr: hvad
„skal eg tilgjøra, svo eg hólpinn verdi? Og
„nær madur hefur þá munnliga vísad hønum
„veginn, svo getur þad verid mikid þénanligt
„ad endíngu ad segja vid hann: minn vin! hér,
„i þessu litla skrifi, kantu enn nú greiniligar
„ad lesa um þad efni, sem vid talad høfum,
„hvør vid annann! Og loksins — 7) hefur
„atferd þessi allareidu sipað virkiliga nytsemi.
„Tvø dæmi þar til viljum ver her framsetja.
„Einn úngur Herramadur lifdi í løstum og
„andvaraleysi, 'hadi stakligann fiandskap gegn
„allri gudligri hegdun, og svaradi sinna chris
„stiligu vina rádum og brefum med beiskasta
„ógedi. Einn af hans skyldmennum, sem heim-
„sókti hann, gaf hønum einusinni um kvøld-
„tíma eitt lítid skrif, og bætti bón þeirri vid,
„ad hann vildi syna þá eptirlátsemi, ad lesa
„Skrif þetta. Hann tók þad med sér til her-
„bergis sins, og ádur enn hann geck til reckju,
„las hann hina fyrstu bladsídu. Lesturinn vakti
„hans athugasemi, þar hann fann nockud þad,
„í þvi sem hann las, sem hann hafdi aldrej
„þeinkt um ádur. Eptirkomanda dag las hann

„heila ritið í gegn, og ávøgsturinn varð, ein diúplæg
„ábyggja fyrir hans sálar frelsi, svo að hann á
„sama augnabliki tók að hrópa til Jesum um
„fyrirgefningu, náð og frið. Hann er nú einn
„sérdeilis ákafur Christinn, og í því héraði,
„hvar hann býr, frabærliga ydjusamur að út-
„breiða Christi þekkingu. Það litla skrif, sem
„auðsyndí þvílíka verkun, er mikið ágjætt. og
„forþénar rúm í sé hvørju andligu ritsafni; það
„heitir: Vivians þrjú samtøl millum eins
„Prests, og eins af hans sóknarmønnum. Sú
„ønnur persóna — hvørrar dæmi vér viljum
„tilleiða — hafði verið einn sjómaður, mis-
„brúkaði — eins og margir — sunnudaginn, var
„einn dryckjurútari og tamur á að sverja og
„blóta; í fám orðum: hann var einn illaræm-
„dur syndari. Kona hans, sem leigið hafði
„sjúk í hospitali þar í héraðinu, færði með sér
„heim eitt uppbyggiligt skrif, sem sérhvørjum
„þeim er gefið, er, eptir það hann er heill
„orðinn, sér burt af hospitalinu. Hann las
„skrif þetta, og varð hann færður um sitt syn-
„duga ásigkomulag; heimsókti síðan evangel-
„iskar predikanir, og nú, um nockur ár, hefur

„madur alla orsøk til ad halda hann fyrir einn
„sannann Jesu lærisvein.“ Ad endingu qvedur
svo ad ordi í þvi engelska formálsskrift: „Sú
„ánægja, sem þessi atferd ad gjøra gott, nær
„hún lickast, med sér færir, tekur yfir allt þad,
„sem þessarar veraldar sælgiætíngar géta smac-
„kad, í øllu sínu útvaldasta blífi Nær sá
„himneski sannleiki, sem þú, med einu ritkorni
„gafst einum þínum samfararmanni til eilífd-
„arinnar í hendur, verdur hønum Guds krap-
„tur til sáluhjálpar, og hann einhvørju sinni
„mætir þer og talar til þín þessum ordum: eg
„hefi orsøk ad blessa yfir þig um alla eilífd fyrir
„þá gáfu, þú gafst mer, því hún hefur frelsad
„sálu mína; þá meiga Kóngar og Furstar øf-
„unda þig fyrir þá fagnadar tilfinníngu, sem
„þú nýtur, og betla um einn litin skérf af
„þinni gledi. Ellegar nær lokfins í himnaríki
„einn forkláradur kann ad segja til þín: þér
„minn kjæri vin! á eg, nærst Gudi, þessa dyrd-
„ar kórónu, sem eg nú ber, ad þacka; sá
„merkiligi dagur, á hvørjum þu gafst mér þá
„litlu bók í hendur, er, jafnvel þó þú sjálfum
„hønum gleymt hafir, óútskafanligur úr mínu

„minni; því fyrir Jesu náð gjørdi hann mig „víssann til sáluhjálpar. Hvør vill voga með „dauðligra manna túngu, að útmála þann „fögnuð, sem fyllir þá og gegnum þreingir sálu „þína. Þvílík orð hljóta að vera eyranu ynd„isligri, enn sjálf himinsins saunglist" Þessi eru nú orð hoíunda hins engelska félags. Nú hefur félag þetta erfidad síðan í heil 15 ár, bæði í Englandi og annarstaðar, og hvørsu margföld dæmi hafa þá tíðum gefist, á manneskjum af øllum støndum, til þess, hvílíkar blessaðar verkanir, þess atburðir hafi hafa, til að snúa syndarunum frá myrkrunum til ljóssins, og gjøra þá að Jesu Christs sønnum rkkislimum. Mundi það þá vera ofdjørf von, að vænta líkrar verkunar, af líkum atburðum, vor á meðal? Ney, það væri að reingja fyrirheit vors Guðs.

Þessvegna verður hér þá framborinn frumgróði vors nystiptaða félags; Ritkorn, sem stefna til þess stóra augnamiðs: að staðfesta Trúna á Jesu friðþægíngu í mannanna sálum, samt undireins að vekja hjørtu þeirra til elsku, til heiðrunar og til hlýðnis við þennann mannkynsins Frelsa-

ra, og þarmed leggja grundvöll til þeirra sönnu farsældar, um tíma og eilífd. Blessi hann þá vort fyrirtæki, í hvörs nafni vér byrjum, og géfi þann ávögst, sem hönum er dýrdligastur, en hans söfnudi sáluhjálpligastur. Þá verdur vor gledi fullkomin!

Utgefarinn.

